23 »Yður skal, sikling«, sagði hún,
»sæmdir veita af engum grun ;
lát mig, bragning, bíða Hrings,
búist þið eigi til skjalda þings.

24 »Fylkis elskan forn og ný
festist mér í hjarta bý,
ónauðug skal eg orð við hann
aldri rjúfa sæmdar mann«.

25 Fylkir svaraði furðu snjallt :
»Fyrir þig reynda eg heitt og kalt,
þeygi er von að þessa bæn
þiggir af mér brúðrin væn«.

26 »Sá gengr harmur hjarta nær«,
hyggin talaði ræsis mær,
»ef eg skal borin að bölvi þeim
báðum kóngum suður í heim«.

27 »Þurfið ekki að ugga það,
ágæt brúðr«, er Tryggvi kvað ;
»forlög okkar fara sem má,
festa skal eg þig, menja Ná.

28 »Hefi eg«, kvað Tryggvi, »tempnað ráð,
takast mun þá með ýtum náð ;
systir mín er svinn um flest,
sú skal verða Hringi fest.

29 »Skikkju grund, sú skyld er mér,
skulu við reikna jafna þér,
upp á ment og mannvit alt,
málið prýðir vífið snjalt.





30 »Hennar gangr og hegðan góð
hæversk sýnist flestri þjóð ;
auðar fold er sköpuð í skart,
skinnið ber hún einkar bjart«.

31 Mektug svaraði menja grund :
»Miklu er það dýrra sprund ;
vizku fá menn varla leynt,
veit það gjörst að oft er reynt.

32 »Hrinda mynda eg harmi brátt,
ef héldist þessi ykkar sátt,
elligar eru mín örlög ill ;
jafnan fer sem verða vill«.

33 Hvort gaf öðru hæversk orð
hringa Baldr og menja skorð ;
svo var Tryggva launað lið,
lýðir bjuggust veizlu við.

34 Garða kóngs var glaumr í höll,
gift var síðan menja þöll ;
ekki mátti mjöð né vín
mærin kenna á vörum sín.

35 Allan mánuð ágæt stóð
öðlings frægð og veizlan góð,
síðan fluttust sjávar til
Saxa vörðr og menja Bil.

36 Flest alt skildist frúna við
furðu hrygt í Görðum lið ;
var hún þá leidd á lægis hrafn,
lofuðu allir hennar nafn.

37 Ríkis síns fór röskr á vit
randa brjótr og silki fit ;
vindrinn fast í váðum þaut,
vænni fold úr geima skaut.

38 Yngri maður og eldri þar
ævar glaður í landi var,
þá þeir kendu kóngsins för ;
kurteis fylgdi hringa Vör.

39 Fólkið þóttist lifna og land,
lofðung festi skeiðr við sand ;
upp var leidd hið ljósa sprund,
lýðir komu á Tryggva fund.

28

## VI

54 FAGRAHVÉL á fjöllum rýðr,
fylkir sínum mönnum býðr :
»Grípum vopn en gleymist friðr,
göngum svo til strandar niðr«.

55 Drífr að Tryggva drengja her,
dögling ofan til strandar fer ;
Hringur kom með höldum gegn,
hann var fús að reyna megn.

56 Báðir kasta brynjum þeir,
börðust síðan kóngar tveir ;
svo var ákaft ýta lið,
öngvir komu skeytum við.

57 Berjast síðan bragnar þá,
beggja herrinn þetta sá ;
dreyrinn féll á Derlings frú,
drósin gréti ef sæi hún nú.





58 Huglausum var hvergi þá
höldum vært í branda gá ;
hver var ráðinn fjörvi frá,
fylkisson sem mátti ná.

59 Gladdist örn en gylfrin drakk
gumna blóð svo næsta sprakk ;
varla mátti sólina sjá,
svo stóð hrafn um fallinn ná.

60 Gemlir tók að gjalla hátt,
gjarn að brytja ekki smátt ;
flestir komu fuglar þá,
fæðu sinni að bíta upp á.

61 Fanst svo enginn fjaðra sár,
flýgur þangað einnig már,
lómrinn tók að læðast þar að,
líklegt má yður sýnast það.

62 Ormar tóku að auka skrið,
allvel komu sér vargar við,
bessi tók að bíta þar
bragna kind að fallin var.

63 Ljónið eyddi lýðum mest,
lét þá pardó eigi á frest,
úlfar tóku að æsast framm,
ógurligt var tanna glamm.

64 Ekki þarf að auka það,
öll eru komin í þenna stað
dýrin þau sem drottinn skóp ;
drekinn margur að vígi hljóp.

65 Belgja sig á blóði nú,
býsna mikil er fyllin sú,
varla fá þeir vagað á braut,
velta sér yfir hverja laut.

66 Innist fátt um ýta högg
afreks manns í fleina dögg ;
gjör eg þar ekki grein upp á,
get eg þar ekki sagt ífrá.

67 Þetta er talið hið þriðja mest
Þundar él með vopnum fest
norðr í lönd, svo nefnir spil ;
nú eru gjör á þessu skil.

68 Hilditönn hefur átt það eitt,
allvel gat hann vopnum beitt ;
Brjám hefur unnið beztan sigr,
bar sá kóngr að hildi vigr.

69 Á Íliu völlum orustan var,
ekki fékk meira fleina skar ;
Bróðir lék þar bleyði bragð,
bar hann á hilmi hlífar flagð.

70 Hilmir féll og hafði sigr,
hann er orðinn dýrðarligr,
heilagur er hilmir nú,
hann hefur átt sér versta frú.

*29*

X

12 EIREK hélt í Austrasalt
öndvert vár og sumarið alt ;
margur af því kendi kalt,
kyndugt ráð var þeygi valt.





13 Lögðu inn í leynifjörð
og leyndust upp á Saxa jörð ;
fletja hans var fullskjótt gjörð,
frá eg þess gjalda vigra Njörð.

14 Skjótliga talar hann skildr við dáð :
»Skötnum á eg að gjalda háð,
til þess skulum vér tempra ráð
að Tryggvi missi líf og láð«.

15 Lengi frá eg þeir löttu þess,
lyftirunnar orma skers,
sögðu gildan geymi hers
grimman vera sem markar fress.

16 Sefaðist ekki seggr að heldr,
svarar hann stutt og var þá sneldr :
»Margur þessa maðrinn geldr,
hann meinar oft því annar veldr«.

17 Honum var hvergi af reiði rótt ;
raun mjög var þá myrkt af nótt ;
bragnar tala við beizkan þrótt :
»Borgina fáum vér aldrei sótt«.

18 »Farið þið hljótt«, kvað fletju drengr,
fljótliga hann að staðnum gengr ;
hliðanna geymdi inn harði strengr,
hurð með járn og nokkur kengr.

19 Lykla tók úr leyndum stað,
lásum bar hann þá síðan að,
ýtar snúa sem Eirek bað
inn um port og gjörðu það.

20 Grimmir háðu geira ný,
gaflok flugu þar hátt við ský ;
vaknar þjóð við þenna gný,
þá var ekki kyrt um bý.

21 Eldi slógu í öðlings rann
einkar skjótt, svo kóngrinn fann,
klæddist hart meðan húsið brann ;
hræddist margur ófrið þann.

22 Tryggvi misti háva höll,
hirðin var þar nálæg öll,
komust út á víðan völl,
var þá búið við randa göll.

23 Öðling spyr hver eldi ræðr,
Eirek talar í lyndi skæðr ;
bálið óx þá birtust glæðr,
brögnum veittist unda flæðr.

24 »Nú er sá fús er flýja hlaut
fleina þings fyrir skjalda Gaut,
skal eg það gjalda skikkju laut
hún skýfði oss frá ríki í braut.

25 »Hitt skal mælt að hefnumst vær,
Hringur er nú ekki nær«.
Stríðið óx um stundir tvær ;
stillir anzar í móti og hlær.

26 »Ills var löngu að þér von«,
öðlings talaði þanninn son,
»ríkari er nú seggjum sjón,
svikulan ætla eg Háreks þjón«.





27 Trumban þaut en tábur gall,
í turn og múrum organ skall,
pílan framan í plátu small,
pípti blóð en undin svall.

28 Voðaligur var vopna kliðr,
vísir sína þegna biðr :
»Sæmdar drengir, sjáið þér viðr ;
sannliga erum nú staddir miðr.

29 »Felmtri engi fyrða mín
og forðist engi dauðans pín ;
bragnar auki benja vín,
brátt má neyta vopna sín«.

30 Tryggvi gjörðist æfr og óðr,
öðling berst af magni fróðr,
víst er honum í vígi hróðr,
varð hann bæði sár og móðr.

31 Búkar féllu á báðar hendr,
brögnum af honum ótti stendr,
hlífin lemst þar hjuggust rendr,
hann var brátt af öllum kendr.

32 Kóngsins féll þar manna mart,
myrkrið olli þessu svart ;
því var næst af blossa bjart,
brodda élið gerðist snart.

33 Öðling hjó til Eireks fast,
ekki beit þá járnið hvast,
högg var þungt svo hjörinn brast,
hlífin stökk en ekki skarst.

34 Eirek féll við öðlings högg
og út af munni benja dögg ;
svo var ræsis róman snögg
hann reif í sundur Óðins plögg.

35 Hvergi gafst þá höldum friðr,
hilmir lék svo gumna viðr,
braut á háls eðr barði niðr,
berserks má það heita siðr.

36 Öðling þreif upp Eireks menn,
einatt drap hann þá fimm í senn,
hraut á jörð úr hausum tenn,
hann bar sjálfur merkið enn.

37 Engi maður sá æðri vörn,
allir þóttu hjá sem börn,
saddi ræsir soltinn örn,
sæmdin var honum furðu gjörn.

38 Eirek komst nú upp á fætr,
engi gefur að þessu gætr,
sjaldan biðin á sóknum lætr,
svella munu honum heiftar rætr.

39 Buðlung tók að blása hátt,
brytjað hefur hann ekki smátt,
lið var eftir furðu fátt,
fárliga hefur hann mæði átt.

40 Eirek eggjar ýta þá,
einatt biður hann höggva og slá,
skarst í sundur brynjan blá,
bragnar rýmdu allir frá.





41 Kóngrinn er þá laginn í lær
listar gjarn, sem fréttum vær ;
hilmir svo með hnefunum slær,
höldar lágu dauðir nær.

42 Fylkir hafði fleiri sár,
fossum dundu benja ár,
virða engi við honum stár,
var þá móður kóngrinn knár.

43 Hjartað sprakk af harðri nauð,
hetjan féll að velli dauð,
Eirek þá við odda gnauð
aldrei frið né trygðir bauð.

44 Skemmu bygði skjöldungs sprund,
skatnar sóttu á hennar fund,
sögðu fallinn fleina lund,
frúin lá sem dauð um stund.

45 Þegar sem ristill raknar við
ræddi hún svo við gumna lið :
»Ef komumst vér inn um kastala hlið,
kvíði eg ekki um Eireks grið«.

46 Kastali sá var húsa hæstr,
harla sterkr og mjög vel læstr,
sótti þangað svanninn glæstr,
Sveinn gekk jafnan vífi næstr.

47 Torveldligur var turninn heldr,
traustur múrinn þessu veldr,
hann skeður ekki inn heiti eldr,
hvergi verðr af neinu feldr.

48 Eftir fallið fleina hregg,
fyrðar sóttu að kastala vegg,
gengu að með oddi og egg,
og eyddu mörgum frúinnar segg.

49 Eirek kallar einkar hátt :
»Eg hefi sýndan frægðar mátt,
vér munum bjóða virðum sátt,
vil eg nú eiga falda gátt«.

50 »Múrinn gjörir oss mikla hlíf«,
mælti þannig ræsis víf,
»þengils fólk og þorna dríf
það skal kosta eins manns líf«.

51 Eireks lið var einkar fátt,
ekki treysti hann sínum mátt,
fjarri stóð að fengist sátt,
flýði hann burt um miðja nátt.

52 Síðan var hann á Saxa grund
sektum borinn um langa stund,
sterkan vakti hann stála fund
og stökk svo norðr í Eyrar sund.

## 30 SIGURÐAR RÍMUR FÓTS

### IV

6 KURTEISLEGA var kóngsins höll
kögrum prýdd og reflum öll ;
brunnu ljósin björt sem má,
bar þar hvergi skuggann á.





7 Trapitsan var með tignum öll,
tiggja stóð í miðri höll,
skrifuð við stein og skurðum sett
skæru gulli og orma stétt.

8 Könnur stóðu og krúsir hjá,
kurteis horn og bikarar svá,
skálar, kúpur, skrautleg ker,
skurn og rós og spíran er.

9 Dúkar voru um döglings borð
dregnir mest við orma storð,
brúðar skari var búinn með list,
bragna sveit var hljóð og tvist.

10 Svo var dyrunum hrundið hátt,
hurðin stökk alt upp á gátt,
sá kom halur í hallar dyr,
hvergi litu þeir slíkan fyr.

11 Kápu hafði hann klæddan sig,
komin er þessi sögn fyrir mig,
röggvar voru um rekkinn niðr,
ramligr þótti fleina viðr.

12 Þegnar horfðu á þenna mann,
þeygi frá eg þeir kendu hann ;
sá kom drengr í döglings höll,
að drjúgum undraðist hirðin öll.

13 Hirt var lítt um hölda þá,
heilsar engi þegna á,
á gólfið hallar gengu mitt,
görpum var þar báðum fritt.

14 Sigurðr talar við segginn þann,
fyrir siklings borði þjónar hann :
»Tak þú rós við Rínar eim,
rekkum bjóð að drekka þeim«.

15 Sveinninn gjörir sem sikling bað,
sæmiligt var vínið það,
rennir á þar er rósin stóð,
rekkum skenkir horna flóð.

16 Kappinn sá er kápu bar
knúði vigur af afli þar ;
sá kom stormr í stillis höll
að stukku af kertum ljósin öll.

17 Báðir kalla kóngar þá :
»Kveikið ljósin hver sem má ;
hér hefur orðið ævintýr,
ýta margr um brögðin býr«.

18 Lýðir tendra ljósin björt,
lýsti um allan glugga hjört ;
horfin var þá hvítust frú,
hvorugan sáu þeir kappann nú.

19 Bragnar kanna breiða höll,
borg og stræti, dali og fjöll,
fjöru og skóg og fagra grund ;
fanst þó hvergi hið fagra sprund.



31

## BÓSARÍMUR

### V

5 BRÖGNUM vil eg nú birta það, hvað Busla gjörði :
Brynþvara hitti brúðrin þarfa
og bað hann hjálpa sínum arfa.

6 Anzar síðan aura meiður auðar Gefni :
»Getur það enginn, gullaðs Freyja,
gefa þeim líf, ef hann skal deyja.

7 »Kuklaradómrinn kemur þér nú«, segir karl, »fyrir lítið,
Bósa mátti ei bjargir veita«.
Brúðrin anzar honum en teita :

8 »Get eg ei séð«, segir gullskorð, »miður mér ganga mætti
vesligar en vómnum þínum
víst að hjálpa kappa fínum«.

9 Um kveldið eftir kelling frá eg að kónginn hittir ;
hilmir fann í hvílu sinni,
hóf þá bæn, sem lengi er í minni.

10 »Liggur hér«, segir lindin bríma, »lofðung Gauta,
breytni hefur þú býsna-stirða,
buðlung, viltu son þinn myrða«.

11 Fádæmi þau kvað falda þöllin fréttast víða ;
»völdugir menn um veröld mesta
munu þig, ræsir, kalla verstan.

12 »Buðlung, heyr þú bænina þá, sem brátt mun eg syngja
og óþörf vera«, segir eymdin vífa,
»öllum þeim, sem eg vil ei hlífa.

13 »Tungan þín bið eg tréni upp, þá tala vill ræsir,
heyrnin burt frá höfði renni,
og heilinn springi út um enni.

14 »Buðlung, skulu þín bölvuð augun bæði springa,
utan þú Bósa bjargir veitir
og blíðu ekki Herrauð neitir.

15 »Hilmir bið eg að í hvílu sé sem á hörðu grjóti,
og í hásæti sem á hafsins báru,
haldinn og spentur angri sáru.

16 »Hölda lið og heimrinn allur hati þig, ræsir,
steinar og grund og stráin á jörðu
stangi þig með kappi hörðu.

17 »Fjöll og vötn þau falli að þér með feiknum ógnum,
meinvættir með mestu grandi
meiði þig, kóngr, í þessu landi.

18 »Ef sigling viltu sigla rétt um saltan víði,
bresti reiði, en brotni stýri,
buðlung, allt á hlunna dýri.

19 »Ef, lofðung, viltu og lýða sveitin lystug ríða,
heltist mar og hrumist af grandi,
svo hvörgi megir þú komast að landi.

20 »Sikling bið eg að seinna verði sýnu verra,
utan þú Herrauð heiftir neitir
og halnum Bósa trygðir veitir«.

21 »Þegi þú skjótt, in vonda vættur«, vísir sagði,
»beinin mun eg þín brjóta ella
beint í sundr, in auma kella«.





22 Stillir hygst að stökkva á fætur, stryllu að lemja :
fastur var þá fleygir branda,
fékk hann ekki upp að standa.

23 Kóngrinn frá eg að kallar hátt á kappa sína ;
seggir gjörðu að sofa af létta,
svo hafði kelling búið um þetta.

24 Annan þriðjung yrkti hún þann að eg vil ei greina,
mun eg hann láta líða að sinni
og láta ei birta í vísu minni.

25 Upphaf vil eg þó ýtum tjá á yrpu versi :
»Tröll og flögð og töfranornir
taki þig, kóngr, og álfar fornir.

26 »Þengill, skal eg svo þægja rétt að þínu brjósti,
höggormur er hart kann bíta
hjarta gjöri þitt sundur slíta.

27 »Öðling, sé þér öllu verr en eg kann mæla ;
bergrisar og búarnir allir
brenni upp allar þínar hallir.

28 »Fylkir, skaltu frjósa hálfr«, að fála sagði,
»brenna sumr í björtum eldi,
buðlung, rétt í þínu veldi«.

29 Fylki gat hún fortalað svo með feikna galdri,
gjörði varla gramur að mæla ;
gengin var þá hin mesta sæla.

30 »Villist frá þér veröldin öll« að vífið sagði,
»og virða sveit með vænum geiri.
Viltu, kóngur, þuluna meiri ?«

31 »Fyr en lengur fortalir þú mér fyrst að sinni,
Herrauð vil eg ei höldar grandi,
en halurinn Bósi sigli úr landi«.

32 »Dræpr skal hann«, segir dögling, »vera, ef dreng má eg finna,
fjörinu svifta og fögrum baugum,
ef fæ eg hann litið mínum augum«.

33 Busla talar við buðlung heldr af beizku máli :
»Þá skal tiggi með treganum fínum
taka fram betur í orðum mínum«.

34 Sætan yrkti Syrpuvers af sóni herðum ;
því mega ekki er þuldi gríma
þegnar hlýða um náttar tíma.

35 Vil eg það ekki virðum tjá í vísu minni,
þó er það enn við þulu enda,
því skal inn í rímuna venda.

36 »Milding, skaltu möðkum vella að mestu grandi,
sárin bið eg að svelli af eitri
sjóla rétt með ánauð heitri.

37 »Ærast skaltu annað dægr«, að auðgrund sagði,
»svo bragnar skulu með breytni skæra
buðlung verða í járn að færa.

38 »Hundar skulu hilmi slíta hvössum tönnum.
Sál þín bið eg að sökkvi í víti,
sorg og ánauð jafnan bíti.

39 »Kappar sex skulu kvelja þig með krönkum nauðum,
utan þú Bósa bjargir veitir
og blíðu ekki Herrauð neitir«.





40 Sinnulaus var sjóli þá af sætu máli,
talar hann loks við tvinna Gerði,
trúi eg nú Busla ráða verði.

41 Hilmir spurði : »Hvör er þín vild um hölda teita ?«
»Sentu þessa bragna báða,
buðlung, rétt í nökkurn váða«.

42 »Far þú í burtu furðu skjótt«, að fylkir sagði.
Brosandi anzar Busla á móti
buðlung nökkuð lengra hóti :

43 »Það gjöri eg aldri«, að þorngrund sagði, »í þessu sinni,
nema þú, sjóli, sverjir eiða,
að svíkja aldri bauga meiða«.

44 Vífi gjörði að vinna eið, en vísu skyldi
á buðlung eigi bænin hrína ;
brúðrin lofaði þessu hin fína.

45 Skildu þau svo skjöldung fyrst og skrauta Gefni.
Um morgun þegar misti svefna
milding gjörði þing að stefna.

46 Komu á þingið kóngsins menn og kappar teitir,
dýrir voru drengir leystir ;
dugir þeim oft, sem hugurinn treystir.

*32*

## X

8 TÍUNDA óð af traustri þjóð
skal telja fram af mærðar slóð.
Sigurður stóð að semja hljóð
með sinni hörpu hetjan góð.

9 Lék hann þá með listum sá,
svo lysting þótti að heyra á ;
mönnum frá réð milding tjá,
»mun hér nökkur betur slá ?«

10 »Reynt er það nú rétt í stað,
ræsir, lítt«, er Sigurður kvað ;
strengja glað hann stilti að :
»stynja skal fyrir brodda nað«.

11 Hornin stór með harðan bjór
í höllina komu minni af Þór ;
halurinn fór með hljóða kór,
haglega dundi strengrinn mjór.

12 Dúkar, skör og dýrleg ör,
diskar léku og hnífrinn hvör,
var á för hjá vopna bör
að vísu flest fyrir hljóðin snör.

13 Húfur og skaut af höfðum braut
fyrir hljóðunum upp á þvertréð skaut,
örva gaut en ei var þraut,
enginn hélt því í burtu hraut.

14 Í hvörri krá, sem hermi eg frá,
höldar allir þetta sjá,
léku þá, sem letrin tjá,
leikur allar konunum á.

15 Drömbuð sló með dáðum, svó
drengir öngvir fengu ró ;
leikrinn dró af lýðum skó,
lindi burt úr hosunum smó.





17 Sigurður bað þá seggi í stað
setjast skyldu drykkju að :
»Hljóða nað«, að halurinn kvað,
»hann skal stynja eftir það«.

18 Öllum þá, sem eg mun tjá,
Ásum komu minni frá :
fólkið má ei fæðu gá,
faldafeykir hann gjörði að slá.

19 Birnir og svín, segir bókin mín,
báði naut og geitin fín,
gleymdist pín, en gleðin ei dvín,
gáði öngi skepna sín.

20 Regins með drag og rammaslag
rekkrinn sló þá seint um dag,
var það lag um virða hag,
víst þeir fengu af leiknum plag.

21 Æfintýr með ýtum býr,
upp nam standa brúðguminn skýr,
brúðrin hýr og buðlung dýr
bráðlega fram á gólfið snýr.

22 Gleðin jókst meir, en garpar tveir
gjörðu að stíga á foldar leir,
með ljúfan geir og lauka Eir,
leika öngvir betur en þeir.

23 Þegar saman ber mund og sætu fund,
Sigurður tók þá auðar grund,
í hörpu sprund með hreina lund
huldi hann rétt um eina stund.

24 Hringa Ná í hörpu lá,
hana lét upp í rekkju þá ;
gautar þá, sem greini eg frá,
gullskorð dró út hvörr sem má.

25 Sagt var mér af seggjum hér,
Sigurður gull í hvílu ber ;
gripi og ker hinn gautski her
garpar drógu út að sér.

33

## GEIPLUR

### I

5 ÞAR skal bragrinn brögðum læstr
bjóða skemtan höldum,
Karlamagnús keisari æstr
köppum stýrði völdum.

6 Kóngrinn eflir kristin lög,
og kirkjur lét hann smíða ;
heiðnir fengu högg og slög
er hilmis þorðu að bíða.

7 Keisarinn hefur þá kappa fjöld,
er klæðast vopnum hreinum ;
slík mun hvergi í heimi töld
hirð með kóngi neinum.

8 Rollant var þá ræsi kærstr,
reyndr að snildar verki ;
honum er jarlinn Oliver næstr
og Oddgeir danski inn sterki.





9 Túrpín biskup taldi kær
trú fyrir heiðnum öndum,
og svo vel til víga fær,
hann vegur með báðum höndum.

10 Némus hét og Namlun sá
nýtra herra líki,
þeirra ætt var eigi smá
og Ótúel kóngsson ríki.

11 Var með kóngi Villifer,
er vakti rómur snarpar,
Ívóríus og Ingelér,
allir hreystigarpar.

12 Bernarð og þeir Bæring jarl,
er bjartar randir knúði ;
Reinald varði ræsis hjarl
og riddari Geirarð prúði.

13 Bertrans klýfur brandrinn hvass
búna Handins serki ;
afreksmaðurinn Angelas
og annar Bérarð sterki.

14 Þar var einn á þengils hjarl,
er þótti mörgu spilla,
guðníðingrinn Gunilon jarl,
er gjörði flest ið illa.

15 Nenni eg heldr að nefna fátt
af niflungs görpum snjöllum,
þó skal kveða einn klókan þátt
af köppum þessum öllum.

16 Það skal inna, er út í Frans
eina stund með greinum
dögling situr og drottning hans
dýr hjá lundi einum.

17 Sjóli spurði sína frú
svó með skemtan kærri :
»Mun sá nokkur milding nú,
mér sé jafn eða hærri ?«

18 »Veit eg þann«, kvað vífið ljóst,
»vera mun æðri mektar«.
Kóngi rann svo kapp í brjóst,
að kendi varla spektar.

19 Roðna tók in ríka frú,
reiddist kóngrinn mildi ;
féll hún honum til fóta nú
fljótt og sættast vildi.

20 »Vænti eg þess«, kvað vella Lín,
»að vísir angrið sveigi ;
eg er hin kærsta kvinnan þín,
þú kunn mig þessa eigi«.

21 »Þú hefur mælt svo mikla smán,
mér er skylt að hefna ;
engrar áttu vægðar ván
ef viltu ei kónginn nefna«.

22 »Húgon inn gríski heitir sá
herrann grískra þegna ;
það hef eg frétt, að fylkir sá
má flestu öllu megna.





23 »Engi er svo ræsir ríkr
að rauðagulli og steinum,
þó er hann eigi þengill líkr
þér í öllum greinum«.

24 »Eg skal leita að lofðung þeim,
listin hefur svo unnað,
koma ei fyr í Frakkland heim,
en fái eg hann séð og kunnað.

25 »Beri hann eigi makt af mér
í margri hreysti sinni,
tignin þín mun týnast hér,
tapar þú elsku minni«.

26 Ræsir hugsar ráðin stinn
og ræður þegar að kalla
fyrstan Rollant frænda sinn
og félaga þeirra alla.

27 Hirðin kóngsins hlýðir á,
hilmir talar við lýði :
»Út skulum vér til Jórsala gá
allir samt með prýði.

28 »Eg vil hitta inn helga kross
og halda í burt úr landi ;
það hefur sýnt í svefni oss
sjálfr inn helgi andi«.

29 Listug vopnin lögðu af
lofðungs garpar snjallir ;
skatnar tóku nú skreppu og staf,
þeir skulu til krossins allir.

30 Keisarinn fer með köppum þeim,
kænn og snar í rómu,
út og suður í Jórsalaheim
og allt til borgar kómu.

31 Plaga sig fram í prúðast mynstr,
er Páter Noster heitir,
það mun þykja köppum kynstr,
hvað kóngsins vóga sveitir.

32 Lyktar sinni ljúfri bæn
lofðungs herrinn mæti ;
þegnar líta þar svo væn
þrettán veglig sæti.

33 Sá þeir aldrei suður um heim
sæti slík í höllum,
sjálfur guð hefur setið í þeim
með sínum postulum öllum.

34 Stillir settist stólinn á,
studdi hann kóngleg gifta,
en jafningjarnir út í frá
öðrum sætum skifta.

35 Gyðingr nokkur gekk þar nær
og gjörði alla að líta ;
rekkrinn varð sá raunmjög ær,
réð hann sín klæðin slíta.

36 Pátríarkann fyrstan fann,
féll hann niður að grundu ;
»Sjálf ódæmin«, sagði hann,
»séð hef eg nú fyrir stundu.





37 »Rekka leit eg sex og sjau
sitja í kirkju skærri ;
þeir hafa sezt í sætin þau,
séð hef eg engin hærri.

38 »Einn svo langt af öllum bar,
öll hans klæðin skína ;
Kristur trúi eg að kominn sé þar
kær með postula sína«.

39 Pátríarkinn plagar í stað
presta fjöld á stræti ;
kirkju sinni kemur hann að,
kóngrinn stígur úr sæti.

40 Hvor nam heilsa öðrum fyr,
hvað sé það nema jafni ?
Kirkju herrann keisarann spyr
kænn að veldis nafni.

41 »Frakkland heitir fagurligt hjarl,
er fengum vér með sóma ;
er eg að nafni keisarinn Karl,
kóngr um gjörvalt Róma«.

42 »Þú hefur haft þann sóma sess,
er sjálfur drottinn prýddi,
náliga skulu þér njóta þess«.
Niflung situr og hlýddi.

43 »Hér fyrir skuluð þér hafa það nafn,
heiðri prýddir og seimi ;
þér skal kallast engi jafn
annar kóngr í heimi«.

44 Dögling veitti Draupnis torg
og dvaldist þar með sveina ;
milding gjörði í mætri borg
Máríu kirkju eina.

45 Hélt hann þá, sem hér er sagt,
hóf og veizlu fróma ;
stillir fékk þar mikla makt
og marga helga dóma.

34

## LANDRÉSRÍMUR

### VII

37 ESSIÐ fann sá æru kann,
öðlings niður inn harði ;
stála Tý frá eg stefna úr bý
að stoltum vífsins garði.

38 Lauka hlíð í lyndi blíð
lofðungs arfa fagnar ;
segir hann þá sem sannast frá,
að sorgir heldur magnar.

39 Bauga lund hið blíða sprund
býður hjálp að veita ;
göfugur mann er giftu vann
gjörði þessu að neita.

40 »Bráðliga skal frá brúðar sal
burt á merkur ríða ;
skaða af mér«, kvað skjalda grér,
»skaltu öngvan bíða«.





41 Grætur nú in göfga frú ;
geymir frænings vallar
boga tók sín frá bauga Lín
burt og örvar allar.

42 Góðligt ess hefur geymir hers
og gyltan söðul með reiða ;
falda Rist nam fylgja tvist
fram á skóginn breiða.

43 Herrann burt með heiðr og kurt
hleypti á skóginn víða ;
spjóta Týr er spakur og hýr,
sparir þá ekki að ríða.

44 Auðnu sterkur út á merkr
öðling ferðum skundar,
kóngsins niðrinn kemur ei viðr
kappann neinn til fundar.

45 Fleina Týr nam fugla og dýr
furðu oft að skjóta ;
þó eru mein á marga grein,
hann má þess ekki að njóta.

46 Epli og hnetr sem innir letr
frá eikum frá eg hann hendi ;
randa viðr röskur og sviðr
rauna nógra kendi.

47 Fær nú hungur fylkir ungr
fári spentr á skógi ;
öðlings hlýtur arfi nýtr
ilt af drengja rógi.

48 Syngur þrátt með sæmdar mátt
sveigir Fofnis stétta,
hann biðr sér Krist með blíðri list
að bæta angrið þetta.

49 Mörk var stór þar mætur fór
meiðir öglis fitja ;
dverga fann sá dáðir vann
í dýru rjóðri að sitja.

50 Fýsist garpur framr og snarpr
að finna örva rjóða ;
tvennar var sem tjáði eg þar
tylftir þessara þjóða.

51 Gjörðist nú móðr og geysi hljóðr
greiðir nöðru palla ;
sér þá þegn með sæmdar megn
sitja að kosti alla.

52 Hölda dúkr er harla mjúkr
þeir hafa á milli handa ;
vella grér einn vínpott sér
vænan hjá þeim standa.

53 Skýri eg það hann skyndi af glað,
skreytir frænings síka,
hreystimann er höndla vann
happa gripuna slíka.

54 Setti í skóg með sæmdar plóg
sviftir Fjölnis tjalda ;
Úri hyggur ógnar styggr
eftir honum að halda.





55 Suðri vann fyrir sæmdar mann
að sínum bróður víkja ;
»Gripi eg á, sem greina má,
garprinn, þessum líka.

56 »Siklings nið trúi eg sæmd og frið
svinnum beri að hljóta ;
eg bið þegn með ágæt megn
allvel þessa að njóta.

57 »Vestri hlýtur vísir nýtr
fyrir vænum slíkt að glósa,
drykk og vist með dýrri list
dögling má nú kjósa.

58 »Mun hann í dag með máttar plag
móður sína finna,
hungr og stríð þolir harla fríð
hrundin beðja linna.

59 »Sætan klár er sjö hefur ár
setið í myrku ranni,
þorna Lín hefur þessa pín
þýðust fjarri sanni«.

60 Þaðan á leið að þegninn reið,
þungu gleymir stríði ;
hann tignar Krist með tungu list,
tiggja arfinn fríði.

61 Fylkir ríður furðu blíðr
fram með brjósti hreinu ;
kesju Yggur kænn og dyggr
kemur að húsi einu.

62 Öðling kyr nam öngvar dyr
á þeim múr að finna ;
fleina grér að fugl einn sér,
fyrðum vil eg það inna.

63 Hljóðið sætt og harla mætt
heyrði mýgir ríta ;
fugl einn söng yfir falda spöng,
fagur sem gull að líta.

64 Fýsti þann er frægðir vann,
að fífan skyldi nista ;
hann réð brátt með heiðurs mátt
á himni uppi að gista.

65 Inn í múr til ítrar frúr
skaut eyðir nöðru fanna,
broddrinn kemur og brjóstið nemr
beint á vænum svanna.

66 Siklings þjóð með sárum móð
setti múrinn þröngvan ;
skarlats láð fékk skeyti náð
og skaða beið af því öngvan.

67 »Lengi eg má ei lifa hér þá«,
kvað lindin frænings grjóta ;
»vilja mig nú«, segir vitrust frú,
»virðar örvum skjóta«.

68 Hratt í stað sem heyrði það,
hugði þangað stefna,
finnur tré sá frægð nam ske
er fyrðar láreo nefna.





69 Tignar mann það telgja vann,
tjáð er slíkt í kvæði ;
buðlung kyr fékk brotið sér dyr
en brugðið sút og mæði.

*35*

IX

7 NADDA Týr, inn níunda óð
nýtri vildi eg greina þjóð,
hlýra sinn skal hilmis jóð
hitta nú sem beiddi fljóð.

8 Marnum hleypti mörkina á,
mun þar verða greina frá ;
plátu meiðir prúður sá
pálmara einn á grundu stá.

9 Þessi talar við þengils kund,
þóttist næsta prúðr í lund :
»Ferskum býð eg fleina Þund
fæðu taka með mér um stund«.

10 Milding hlýddi mætr á það,
mettur reið hann eigi af stað ;
garprinn eigi gáði að,
gjörði nú sem pílagrím bað.

11 Stígr úr söðli stýfir hers,
að steypi veik hann Fofnis skers,
kurteis léit hann klæði og ess,
kunni eigi skil til þess.

12 Fölnar hans inn fagri litr,
fleins Týr þvingar reiðin bitr,
niflungs arfi næmr og vitr
naktur frá eg á velli sitr.

13 Reið í burt sá randa grér
róstu drengr er falsið tér ;
†hitti hinn frú sem horskust er,
hvergi þennan pílagrím sér.

14 Lofðungs arfinn líta vann
lymsku trúðinn aldrei þann ;
æsti sorgin afreks mann,
aftur þegar til snótar rann.

15 Sifjin talaði sútum nist,
er seggrinn hafði gripina mist :
»Gjörir þér ekki gagnið vist
glópska þín«, segir auðar Rist.

16 »Þeygi muntu þurfa, fljóð,
þann veg láta að seima bjóð,
lymsku dreng eg leit á slóð«,
Landrés talar af hörðum móð.

17 Sagði hann hans inn svikla mátt
sóma gæddri hringa gátt ;
prýðilausan pílagríms hátt
plagaði þegn að skýra brátt.

18 Síðan anzar svinnust frú :
»Seg ei lengr af þessu nú ;
skal svo aldrei skræfan sú
skuppa þig«, kvað menja brú.

19 Skrúðann fékk hún skjöldungs kund,
skein af honum um jörð og sund ;
aldrei þóttist ágætt sprund
of vel þjóna hjörva lund.





20 »Taktu hér við tignar grein,
traustan bugni og sára tein,
Hrumnis ess á hyggju stein,
hjörinn búinn«, kvað silkirein.

21 »Má þér ganga mikið í kjör
þó móti yður sé villan gjör ;
Yrmling nefni eg ítran hjör
er ýta·kann að minka fjör.

22 »Essið frítt með augun sér
alt það vont sem fyrir þig ber ;
kurteis hefur það, kesju grér,
Kristur sent til hjálpar þér«.

23 Hún réð þegni fæðu fá
og flest alt það sem veita má ;
»Gramr, skal þér in geysta þrá
gjarna bætt«, kvað auðar Ná.

24 »Þú verðr að njóta vizku þín«,
voldug mælti hringa Lín,
»garpnum ætlar grimma pín
Galíana með ráðum sín«.

25 Öðling hefur sig út í stað
einkar skjótt sem sprundið bað ;
»Þú stíg á ess«, að kvinnan kvað,
»Karling máttu nefna það.

26 »Hygg að því með heiðr og skraut,
ef hilmis arfinn kemur í þraut,
varast þú það«, kvað vella laut,
»að verða gintr af essi í braut«.

27 Hún fylgir honum á fagra grund
fljóðið prútt í sinni lund;
hann skildist þá við skarlats Hrund
skjalda Týr að liðinni stund.

28 Þar sem öðlings arfi reið
æru og sæmd að jafnan beið;
stoltum sýndist stála meið
staður einn fríðr á sinni leið.

29 Getur þá líta gamlan mann,
geysi nógar flærðir kann;
slagning hafði slinni þann,
slyngur er við ilsku hann.

30 Kunna frá eg inn klóka hal
við kappann hefja flærðar tal:
»Mildings son með menta val
messu fríðri hlýða skal«.

31 Tekur beizlið tönnum jór,
trúðr er ekki í flærðum sljór;
upp á kirkju essið fór,
er það mæða halnum stór.

32 Furðu vænum fylkis nið
fákrinn veitti næsta lið,
æru hlaut og allan frið,
essið staldrar hvergi við.

33 Gildlega út á gjálfrið renn,
grandar ekki falsið enn,
upp á landið svimaði senn,
hann sá þá hvorki stað né menn.





34 Skamma stund um skóginn fer,
skrímslin áður en fyrir hann ber;
mentum prýddur málma grér,
marga skjöldu á grundu sér.

35 Riddara flokk að ræsir leit,
raunar margt með galdri veit;
þessi ætlar þegna sveit
þengils arfa flærðar reit.

36 Inna þeir sem eg hef spurt
að öðling hafi vizku þurft:
»Ræsis arfinn reyndr að kurt
ríða má við oss í burt«.

37 Hesti í móti höldum snýr
hilmis arfi frægr og skýr;
öngvan mann sá örva Týr,
ilsku snót um flærðir býr.

38 Hetjan ríður harla svinn
hvössum girtur benja linn;
líneik vildi lymsku stinn
lofðung reyna í fimta sinn.

39 Kurteis lítur kóngsson þar
karlinn einn með lymsku par,
týgin svört að trúðrinn bar,
tamur við allar skemdir var.

40 Essið hefur hann einnig svart,
ilsku drengrinn rausar mart:
»lofðungs son, með list og skart
leika fremdu við mig snart.

41 »Gakk af essi geira viðr«,
glóprinn vondi þessa biðr,
»aukast mun þá æra og friðr,
öðling, þér«, kvað flærðar smiðr.

42 Frá eg hann vendir fáki enn,
færði hann í beizlið tenn ;
kynja munu það kátir menn,
karlinn varð í burtu senn.

43 Svikarinn hvarf í samri stund,
sá var engum heill í lund ;
linni sýndist lofðungs kund
liggja fyrir sér einn á grund.

44 Eitri blæs sem orkar hann,
öngva kind að verri fann ;
foxið þetta flest ilt kann,
Fjölnis brúður stikna vann.

45 Herðir tauminn hilmis kundr,
harkalegur er þeirra fundr,
beinin öglis braut hann sundr,
bifaðist ekki seima lundr.

46 Skríður heim með skemdar pör
skræfan eftir þessa för ;
lymsku gjörn var lauka Vör
lyst að finna seima bör.

47 »Skýra má eg þér, faðir minn, frá,
fylkis hugða eg lífi ná,
hans af essi hlaut eg þrá,
hér máttu þau merkin sjá«.





IV

1 ENN mun verða óðar smiðr
eina stund meðan fólkið biðr
minnast á, hvað Mágus niðr
mælti jarlinn Geirarð viðr.

2 Mágus arfi mælti blítt :
»Mínu takið þér erindi lítt ;
yður vill bjóða fljóðið frítt,
frægi jarl, í ríkið sitt«.

3 »Hávarð, seg það silki-Lín,
sé eg við öllum slægðum þín ;
brestur hvorki bjór né vín
bragna sveitum heima að mín«.

4 Fylkir gjörir sem fljóðið bað,
frúinnar tók hann letur í stað.
Jarlinn gefur sér allfátt að
og ekki vill hann líta á það.

5 Annað tók hann bréfið brátt,
er burðug sendi hringa gátt ;
þengill gefur um þetta fátt,
þenna hafa þeir leikinn átt.

6 Hávarð jarl er horskr í trú,
hjálpa vill hann stoltar frú ;
brögðuleg var breytni sú,
bréfið þriðja tekur hann nú.

7 Fékk hann jarli frúinnar letr,
furðu rjóðan Geirarð setr ;
honum varð ei í brjósti betr,
bréfið hann til stríðsins hvetr.

8 Plokkar upp og pressu skeðr,
pellan sú er jarlinn gleðr,
vígslugullið frúinnar feðr
fastlega var þar bundið meðr.

9 Buðlung lítur bréfið á,
brosandi mælti jarlinn þá :
»Hvaðan úr heimi er sjóli sá,
sætu vill með stríði fá ?«

10 Garprinn svaraði Geirarðs fregn,
glaðlega mælti frúinnar þegn :
»Herra Príamús hefur það megn,
honum þorir engi að vega í gegn.

11 »Ungu vífi bragning bauð
ið brenda gull og veraldar auð ;
kæran sjálf er komin í nauð,
kjöri hún fyr að liggja dauð«.

12 Hávarð mælti hraustr í kíf :
»Herra, búist í fleina dríf ;
það er nú frægð að frelsa víf
og fróma yðvart stolta líf«.

13 Svaraði jarl og sat yfir borð :
»Sigrar engi gullaðs skorð ;
stoltar frúinnar stóru orð
steypa honum í randa morð«.

14 »Ef þú verndar vífið frítt,
vill hún gefa þér ríkið sitt,
flæðar eld og fólkið blítt ;
frygðug mær er haldin lítt«.





15 Stillir talar við stolta hand :
»Stár mig ekki á frygðar band ;
gjör eg það ei fyrir gull né land
að gefa mig undir kóngsins brand«.

16 »Viljir þú rjóða Viðris tjald,
vísir, fær þú listugt gjald,
mektugt nafn og manna hald,
meyjan kemur á yðvart vald«.

17 Int er þetta orða spjall :
»Elinborg ráði sínum hjall ;
hirði hún ekki um heimskan jall,
hvað er eg betri en annar kall ?«

18 Mágus son tók ment í arf,
miðlungs gott er þetta starf ;
sízt mun vera til sjóla hvarf,
sá hefur betur, eð lítils þarf.

19 »Fyr skal hver inn frækni drengr
falla niður og ymja strengr ;
auðnan ræður alt hvað gengr,
ekki býð eg frúna lengr«.

20 Riddarans tók að roðna litr,
reiðin kemur í hjartað bitr,
Hávarð gekk úr höllu vitr ;
herra Geirarð eftir sitr.

21 Hlupu á skip með hrygðar grein,
hala þeir upp inn sterka flein ;
bragnar komu við borgina Rein,
brúðr er eigi að fréttum sein.

22 Fljóðið þegar að fyrða sér
fregnar skjótt sem vizkan lér :
»Herra, seg það, Hávarð, mér,
hversu blítt tók jarlinn þér ?«

23 Vænu segir hann vífi þá :
»Vér skulum safna liði sem má ;
engan gjörði jarlinn á
yður að frelsa, hringa Ná.

24 »Sá skal verða ragur, eð renn,
riddara sveitin klæðist enn,
búi sig allir bragnar senn,
berjast skal eg við Príamús menn«.

25 »Fyrra sinn«, kvað falda Rán,
»fékk hann hér svo mikla smán,
því mun engi vera á ván,
að vilji hann rjóða mækinn blán.

26 »Hugði hann oss með heiðri að fá,
hér í móti gjörði eg svá
voldugum manni vísa frá ;
vorkunn væri hann mintist á.

27 »Því mun brotin in gilda gerð,
gefur hann lítt um þessa ferð,
yður mun slæma slungin sverð ;
slíks er eg frá jarli verð.

28 »Strengið aftur sterkleg hlið«,
stolta talar hún drengi við ;
»höldum mun þá horfin grið,
ef hingað sækir Príamús lið«.





29 Brúðrin talaði bragða skjót :
»Búið til sverð en skeftið spjót«.
Báru menn til borgar grjót,
biðstundin var nógu fljót.

30 Hér kom enn fyrir hilmis sveit,
herra Príamús þetta veit ;
reiðin kemur í hjartað heit,
heiftin mest á kónginn beit.

31 Hilmir talar við herlið snjalt :
»Hér mun eflast stríðið kalt ;
frúinnar traust er furðu valt,
Frakkland skulum vér brenna alt.

32 »Frúin skal verða frilla vór«,
frægi Príamús þetta sór ;
»lægjast mun þá lundin stór,
ef líneik verðr að trúa á Þór«.

33 Príamús heldur óðr og ær
upp á land með dróttir þær ;
rekkar tjalda Reinsborg nær,
ristill af því sorgir fær.

34 Hávarð bjó sitt herlið mætr,
hringa skorð af harmi grætr ;
heyra má það lægra lætr,
lúðrar ganga um allar nætr.

35 Príamús talar við prúða drótt :
»Plagi þér yður til rómu skjótt ;
bráðla fá vér borgina sótt,
brúðar lið hefur öngvan þrótt«.

36 Kóngrinn Príamús klæðist brátt,
kappa lið var ekki fátt ;
þegnar ætla að þreyta mátt
þegar að líðr in grimma nátt.

37 Seima grund af sútum hljóð
sína býr til rómu þjóð.
Hér mun verða listugt ljóð
læsa niður í bragða sjóð.

37

## V

58 ÞEGAR að heftist hjörva róg
og höldar slíðra geira,
jarlinn hefur sig út á skóg,
ekki sér hans meira.

59 Loftið fann, sá lýði vó,
og ljósa þellu hringa,
færði hann henni fálka tvó
og fjölda vænna þinga.

60 Drekka þeir hjá gullaðs gátt
gestir, en eigi fleiri.
Þar svaf jarlinn aðra nátt
enn hjá bauga Eiri.

61 Frægur herra festir blund,
firður öllum pínum ;
veik að hvílu hringa grund
og hyggr að gestum sínum.

62 Ágæt lítur auðar strönd
andlit Geirarðs prúða,
þar með ljósa lofðungs hönd
lukta vænum skrúða.





63 Strengir aftur reisugt rann
ristill þessi inn prúði ;
kemur í borg og kæru fann,
kalsar þegar við brúði.

64 »Drengir þrír með dygðar plag
drekka í húsi mínu,
þeir hafa, brúðrin, barist í dag
bezt af fólki þínu.

65 »Þetta er heldr að skýra skamt,
skipaði eg þeim að liggja ;
andlit þeirra allra samt
einn veg leit eg þriggja.

66 »Tígulegir eru tveir að sjá,
tel eg þá hrausta drengi ;
kyrran leit eg herrann hjá,
hans er líki engi.

67 »Horfða eg upp á ljósan lit
lofðungs þess ins dýra ;
ber það eigi mitt breyzka vit
blóma hans að skýra.

68 »Sem þar stæði eitt lystugt ljós
liljutrés ins græna
samtemprast með sætu rós
sólarsteins ins væna.

69 »Þótt eg lægi lengi í kör
og lita eg herrann þenna,
andlit bjart, en augun snör,
einskis mundi eg kenna.

70 »Myndin bæði mjúk og hrein
á mildings brjósti snjöllu,
sem það fíls ið fegrsta bein
fágað hvítri mjöllu.

71 »Lék á fingri Fofnis beðr,
fest með silkiþræði,
líkt sem átti yðvar feðr,
einn veg vóru bæði«.

72 Meyjan anzar miðlungs kát,
hún mintist gjörða sinna :
»Gjör mér hvorki gabb né lát,
þú gakk til hvílu þinnar«.

38

## MÁGUSRÍMUR

### II

29 HÖLDUM frá eg þar hvíldir gaf
heldur fyrst, en segjum af
buðlung situr um borgina þá
beint er áðan sagði frá.

30 Morgun einn, að munda eg tjá,
mengið gengur út að sjá ;
seggir líta siglu hauk,
sunnan beint af hafinu strauk.

31 Kári hristi karfa band,
kurteislega og tóku land
kappar þeir, í kaldan sjá
kafaði fleinn sem heyra má.





32 Hilmir fór, sem hér skal téð,
hittir þann, er skipinu réð ;
keisarinn finnur kappa þann,
kærlega spyr að heiti hann.

33 »Híring hafa mig höldar nefnt,
hingað hef eg til yðvar stefnt ;
Írar heiðra allir mig
öngu síður en Saxar þig.

34 »Mitt er erindið milding það«,
mætur jarlinn talar í stað,
»lýða drótt og liðsemd mín,
lofðung, stár í valdi þín«.

35 Þengill frá eg að þakkar ríkr,
þeirra lýðrinn þangað víkr
hilmis rétt inn horski heim ;
Híring jarl er nú með þeim.

36 Híring jarl og hæversk drótt
heldur gjöra að tjalda ótt ;
langt í burt má líta það
frá lýðum rétt í annan stað.

37 Halurinn gaf úr hyggju torg
hilmi ráð að vinna borg ;
fengu þessum flokki eytt
fylkis menn og Snækoll deytt.

38 Hilmir þakkar heiðarligr
Híring jarli þenna sigr :
»Valda því in vösku ráð,
að vorri höfum vér borginni náð.

39 »Litlu mun eg þér launa það«,
lofðung ríkur mælti í stað,
»gripuna þá, sem greini eg hér,
garprinn, þigg þú hálfa að mér.

40 »Síðan skulum við setja tafl
samið með mestan handar skafl;
það skal gjört með góðan frið,
að gripirnir skulu þar liggja við.

41 »Sá skal eiga sverð og ess«,
sviptir talaði orma skers,
»hér með hauk á hönd sér setr,
hvor sem okkar teflir betr«.

42 Svaraði jarl í samri stund
sveigir stáls með djarfa lund:
»Telst mér engi í tafli ment,
trúi eg mér sé það ekki hent.

43 »Gef mér heldur grip þinn einn«,
garprinn mælti lyndishreinn,
»þekkja mun eg mig, þengill, sjálfr«,
þanninn mælti brodda álfr.

44 »Eg skal ráða«, að ræsir kvað,
»og reisum taflið þegar í stað«.
Settust niður og sömdu leik
seggir beint í orða kveik.

45 Þeir léku nú með list og ment,
eg læt það vera báðum hent;
þanninn frá eg að lyktast lát:
lofðung fékk af peðinu mát.





46 Híring talar, sem herma má,
hirðin stóð og hlýddi á:
»Skiljum þanninn, skjöldung beinn,
skal eg nú eiga haukinn einn«.

47 Vísir sagðist vilja ei:
»Víslega segi eg þar við nei«.
Sömdu borð og settu menn,
síðan frá eg þeir tefla enn.

48 Léku nú sem listir tér,
lofðung geymdi ekki að sér;
buðlung fékk þá biskups mát,
beint sá þetta hirðin kát.

49 Híring talar við hölda greiðr,
hilmir var þá orðinn reiðr:
»Léttum þessum leikum svo,
lát mig eiga gripuna tvo«.

50 Öðling talar af ekka mæddr:
»Ekki þarftu að vera svo hræddr;
fjarri muntu forðast mig,
því ferlega skal nú máta þig«.

51 Ræsis urðu ráðin stinn,
þeir reisa tafl í þriðja sinn,
með listum stefndu leikinn þann
og lætur hvorgi af það kann.

52 Sá var munur, að milding þar
minna hlut fyrir jarli bar;
fretstertan með ferleg lát
færði honum ið þriðja mát.

53 Sjóli frá eg að svarfar létt
sundur tafli um borðið slétt :
ber í punginn brjótur stáls ;
burtu vendir kempan frjáls.

54 Skjalar þá ei við skjöldung orð,
hann skildist þar við tafl og borð,
gripuna tók og geymir þá,
og gekk í burtu sem fljótast má.

55 Híring segir, að hæversk drótt,
höldar skyldi búa sig skjótt :
»Það er minn grunur, að þengill rétt
þoli nú ei við þessu slétt«.

56 Skatnar fyr en skýjanna hjól
skína tók in bjarta sól,
búin er þessi bragna sveit
beint svo að þetta enginn veit.

57 Þenna morgun þýðr og mætr
þengill hafði staðið á fætr,
reikað í burt af rekkju einn,
ræsi fylgdi lítill sveinn.

58 Hilmir hefur í hyggju rann
heldr að gjöra, ef mætti hann,
Híring jarli hneisu þá,
að hendur báðar festi hann á.

59 Lofðung frá eg að lítur það,
hvað lýða sveitin hafðist að :
borða elgur búinn er þá
burt að sigla, þegar vindr er á.





39

## VII

4 BRÆÐUR koma nú beint í stað
bráðlega sínum hestum að,
ferðin þeirra er að flestu greið,
firðar venda heim á leið.

5 Úti frá eg að öðling var,
öngvan þeirra kvaddi hann þar ;
tiggja ekki um talið er létt,
því tíðindin hafði jarlinn frétt.

6 Seggir greindu sjóla þá
sannliga þessu alt í frá ;
hilmir tók að hljóðna viðr,
hökunni stakk í bringu niðr.

7 »Það er nú ráð«, að Rögnvald kvað,
rjóður og talaði þegar í stað,
»faðir minn, gef til fagurligt ráð
svo fyrðar geti oss ekki náð«.

8 Dögling anzar : »Dragnið þér
dáliga burt frá augum mér,
hirði eg ekki um hölda þá
sem hilmir ræntu lífi frá.

9 »Sjóla hefi eg svarið þann eið«,
sagði þanninn kempan greið,
»hjálpa ekki höldum bót
sem honum er nokkuð þvert á mót.

10 »Þessa eiða þengill mér
þanninn veitti af sjálfum sér,
ef bregð eg því«, kvað buðlung mæddr,
»betur að væri eg aldrei fæddr«.

11 Að hallar veggnum hleypur þá,
hilmir frá eg að tekur upp á
snyrtimaðurinn snæri og spjót,
snúðugt gjörði að treysta á fót.

12 Skjöldung hljóp sem skatnar á hest
skjótliga þá þeir keyra mest ;
grunar mig hitt ef gatan er nóg
að garprinn ríði fram á skóg.

13 »Hvort mun skjöldung skógi á ?«
skjótliga gjörði Vígvarð tjá,
»gjöra nú hitt sem grunaði mig
að garprinn ætli að hengja sig ?«

14 Rögnvaldr anzar rétt í stað :
»Róstu verk má kalla það ;
annað ætla eg odda álfr
ætli heldr en drepa sig sjálfr.

15 »Vér skulum finna föður vorn«, þá
fljótlega gjörði Rögnvald tjá ;
Vígvarð anzar : »Vart er það
að vilji eg karli leita að«.

16 Rekkar gjöra sem Rögnvald bað,
ríða heiman þegar í stað ;
skatnar kómu skóginn á,
skýri eg hitt þeir vildu sjá.

17 Fylkir kom þar *við fjórar eikr,
furðu er hann af harmi bleikr ;
þengill heilsar þeim með frið,
þegja frá eg þær allar við.





18 »Hitt var«, sagði hilmis niðr,
»hér var þykkur skógr og viðr,
sem þá fylkis ferðin stinn
fagurlegt stæði um herra sinn.

19 »Yður nam þjóna allur skógr
einka hár og furðu nógr,
laufið grænt og limarnar á
laut það yður og hneigði þá.

20 »Misskift lífi man eg nú það«,
mælti jarlinn þegar í stað,
»epla viðurinn yður í hjá
allur hneigist burtu frá.

21 »Eigi er sæmd«, að öðling kvað,
»yður að vera á þessum stað ;
því er eg kominn«, að þengill tér,
»þiggja skuluð þér ráð af mér.

22 »Barkar mæður búist af stað
burtu heðan«, að jarlinn kvað ;
»stígið upp á sterklegt ess,
stund skal engin á millum þess.

23 »Ríðið fram til Rínar leið,
rétt skal þessi ferðin greið,
steinbogi nokkur stóð þar beinn
stórlega breiðr við ána einn.

24 »Ríðið yfir hann rétt í stað,
ræð eg«, jarlinn talaði það,
»fram með ánni farið þér þá,
fagran megið þér skóginn sjá.

25 »Mörk er þykk en mjór er vegr«,
mælti jarlinn þeygi tregr ;
»þá«, kvað vísi, »vant og breitt
verðr fyrir ykkur jarðhús eitt.

26 »Þar mun vín«, kvað vella rjóðr,
»vist er nóg og hestum fóðr,
þrenna vetr«, að þengill kvað,
»þó þér dveljist í þessum stað.

27 »Mætti vera«, að milding kvað,
»meðan þér dveljist í þessum stað
að reiði skógar renni þá
rétt af yður in mesta frá.

28 »Þetta ráð megið þér þiggja af mér« ;
þengill vendi í burtu sér ;
öðling skildist eikur við,
allar bað hann þær sitja í frið.

29 Fylkir hljóp sem flygi ör
furðu hart af snúnum hör ;
ferð er hans að flestu greið,
frá eg hann vendi heim á leið.

30 Vígvarð talar við virða greypr :
»Viljið þér sjá hvar faðir vor hleypr,
karl er þessi orðinn ær,
enginn er honum að vísdóm nær.

31 »Hafið þér heyrt«, kvað halurinn bleikr,
»að hann hefur talað við fornar eikr ?
sá var fól það fleiprar enn,
að fara muni þær sem lifandi menn«.





32 Rögnvald anzar rétt í stað :
»Ræsir þóttist skilja það,
að vér mundum nokkru nær
nema þau orð sem talað hann fær.

33 »Þetta hefur oss þengill kent,
þó honum væri stríðið spent
vísi hart um vizku ker ;
víst munu eikur standa hér«.

34 Rekkar stíga á reisugt ess,
ríða gjörðu fram til þess
steinboga rétt sem stillir þá
stóran sagði öllum frá.

35 Flýta þeir yfir hann ferðum sín
firrast sorg og alla pín ;
skatnar komu á skóginn greitt,
skil eg þeir fundu jarðhús eitt.

36 Það var búið með þeirri magt
sem þengill hafði þeim til sagt,
vínið nóg og vistin há
víslega að fullu veturna þrjá.

*40*

## IX

11 Í SIKLINGS ríki er seggrinn einn er síðu kann valla,
Áka skulum hann allir kalla,
af honum verður kvæðið spjalla.

12 Hann var hagur á hvers kyns lát í hyggju ranni,
átti fé að mörgum manni,
máttar heimskr er þessi glanni.

13 Skatnar þóttust skyldir til um skálk að villa,
seggnum guldu seint og illa,
síðan þótti mörgu spilla.

14 Halurinn kemur á hilmis fund og hermir þetta,
milding beiddi mál sitt rétta,
meiðir talaði orma stétta.

15 Milding gjörði málið svo fyrir meiði skjalda,
gjörir þeim orðin geymir tjalda,
er góssið höfðu hans að halda.

16 Svo gat öðling séð um það með sömdum hætti,
Áki fékk það alt sem átti,
allvel ríkan kalla mátti.

17 Þegar að Fofnis fleygir bóls að fljóðið spannar,
mörgum þykir þá maðurinn annar ;
mest um þetta bókin sannar.

18 Rekkrinn snýr nú rétt á svinn við ráð að leita,
konuna fékk sér kynja teita,
kveð eg að hún mun Helga heita.

19 Hirðmaðr einn var henni kær sem hér skal greina,
talar hann oft við tróðu hreina,
tel eg að Áki muni það meina.

20 Áki réð við auðar lindi eitt sinn mæla :
»Lízt mér þetta, ljúf mín sæla,
að lýðir muni þig frá mér tæla«.

21 Dýr nam anza dreng í stað sú drósin fríða :
»Alt hvað skatnar skrafa með blíða
skulu þeim svörin í móti ríða«.





22 Áki finnur öðlings manninn einu sinni,
hræddur mælti herjans slinni,
honum trúi eg þetta lítið vinni.

23 Halurinn beiddi hringa Ull sem hér skal tína,
ýtum greinir orða lína,
Áki talar um konuna sína.

24 Hirðmann anzar honum í mót og hermdi ið sanna :
»*Mig mun skrafa við skarlats Nanna,
skal þér ekki slíkt að banna«.

25 »Gefa skal eg þér góssið til ef gjörir ei þetta,
við skarlats lindi skrafa af létta«,
skelfir talaði ófnis stétta.

26 »Þá skal fjárins þriðjungr einn til þín að hlaupa«,
þegnar gjörðu þessu að kaupa ;
þarf eg eigi slíkt að raupa.

27 Fór sá burt við fénu tók og fyrðum sagði
skelfir stáls að skömmu bragði ;
skrafar þá annar við hana að bragði.

28 Enn fann Áki öðlings manninn einu sinni,
heimsku mælti herjans slinni ;
hinn trúi eg þetta leggi í minni.

29 Halurinn beiddi hringa Ull sem hér mun eg tína :
»Hrygðin gjörir mig hart að pína,
helzt þér fíflið konuna mína.

30 »Helming fjárs míns hafa skaltu«, kvað hristir spjóta,
»góssins þyki þér gott að njóta
og gjörir mér ekki skömm svo ljóta«.

31 Þessi gjörði þengils †viður þegn að sendi ;
greiðir Áki góss af hendi,
garprinn þegar í burtu vendi.

32 Öllum segir hann ýtum til að ætlun minni ;
ei trúi eg skatnar skrafinu linni,
skauzt til enn í þriðja sinni.

33 Finnur Áki fylkis mann á fögru stræti ;
halurinn talar við hringa gæti,
hinn trúi eg ekki í svörunum bæti.

34 »Ef skrafar þú ei lengur, skelfir stáls, við skarlats Nönnu,
launin skal eg þér leggja að sönnu,
lestir gulls, af minni könnu.

35 »Alla þigg þú, auðar lundur, eigu mína,
góssið tak í geymslu þína,
gæfan mun þín aldrei dvína«.

36 Þessu kaupir þengils maður og það kveðst vilja ;
honum réð garprinn greiðugt telja
góssið sitt og síðan skilja.

37 Nú kom Áki enn á tal við unga brúði ;
þegninn kemur að þorna Þrúði,
þanninn mælti vondur júði :

38 »Fór það illa fékk eg þig«, kvað fleygir geira,
»vandann hlýt eg víst að meira
víslega af þér hálfu fleira.

39 »Góss mitt alt hef eg gefið fyrir þig«, kvað geira sviftir,
»hvorki er prjónn né penningr eftir,
en pútan ekki um breytni skiftir«.





40 »Féfátt mun þér fyrst til þess«, kvað falda Nanna,
»ef þú ætlar öðlings manna
allra við mig tal að banna«.

41 »Við það leita eg víst ef kann, in væna kvinna ;
skal eg enn þann útsmið finna
að enginn skal þig frá mér ginna«.

42 Með brúði fer hann burt á skóg sá býtir mála,
þar gjörir fleygir Fofnis stála
furðulega sterkan skála.

43 Stór er hurð en sterkr er fleinn fyrir stoltu ranni ;
geymir síðan grottintanni
gullaðs spöng í slíku spanni.

## *41* BLÁVUS RÍMUR OG VIKTÓRS

### V

36 MEN var glæst er Blávus bar,
betri finst ei gripur en þar ;
skýtur augum Skeggkarl nú
og skimaði oft á linna brú.

37 Menið af hálsi milding tók,
mun þar vaxa brögðin klók :
»Hinn góði bóndi, geym hjá þér ;
gefur það öngvan sigurinn mér«.

38 Ljómar vítt af linna dún,
léttir Skeggkarl heldur brún ;
annan tók hann orða slag,
augun færðust sýnt í lag.

39 »Mig hafa seggir sóttan heim ;
sæmdir þá eg af báðum þeim ;
fann eg hvergi fyrða þá,
að frægri væri um alt að sjá.

40 »Andlit bera þeir einkar bjart,
allr er vöxtur snúinn í skart,
stoltr er búkr en sterkar hendr
stáli kljúfa þykkvar rendr.

41 »Þá eg af brögnum brendan seim,
býtti eg engu í móti þeim ;
ungleg orð og æsku brögð
eru til handa bræðrum lögð.

42 »Get eg aldrei grettis sker
goldið þeim sem verðugt er,
utan vér njótum nokkurs við ;
nú skal prófa Dínus lið.

43 »Dyrgjan hans er digur og ung,
drjúgum verður ómegð þung ;
fólk er smátt en furðu mart,
og fær það eigi klæða skart.

44 »Misjöfn verða dvergnum dægr,
dimmr í lund en nokkuð slægr ;
þarf hann fjár en þegna frægð
það mun auka sóma nægð.

45 »Göngum fyrst og finnum hann,
og freistum svo hvað dvergrinn kann ;
sú mun eigi liðsemd létt
ef leggr hann til með öllu slétt«.





46 Virðar líta Vestra höll,
var sú komin á grænan völl ;
stigu þeir fram að steini brátt,
stundi dvergrinn inni hátt.

47 Þegnar heyrðu í þennan stein
þungan blástr og barna kvein ;
fárlega þóttist fólkið statt,
Frosti kvað sér ekki glatt.

*42*

## VI

3 ÞAÐ mun sett í sjöttu grein
að seggir fundu fagran stein,
Skeggkarl leggr á lófa sinn :
»Ljúk upp, Dínus, kompán minn«.

4 Lýkur upp steini og lítur út,
léttir dvergnum ekki sút ;
þekkir Skeggkarl þegar í stað,
þangað víkur Dínus að.

5 Aðra sér hann ýta þrjá,
ekki gaf sér dvergr um þá ;
»Svo hafið þér að steini stillt,
að stórlega fékk eg áðan illt.

6 »Æpta eg mest í alla nátt,
á ýmsa gekk mér enda þrátt ;
nú er sem hattr af höfði mér
hafinn og slíku valdið þér.

7 »Þótt mér svíði um sorgar tún,
svo lízt mér á þegna brún,
nær sem temprast nokkur ráð
nýleg út af hyggju láð«.